

# MINNINGARLJÓÐ

EPTIR

# BRYNJÓLF BENEDIKTSEN

OG DÓTTUR HANS

# INGILEIF BENEDIKTSEN.

REYKJAVÍK.
ÍSAFOLDARPRENTSMIÐJA.
1885.

## Brynjólfur Benedictsen.

---

Björt á firði breiðum
brosir *Flatey* við,
eins og á eyðiheiðum
inndælt haga-svið;
þar er glatt á góðri tíð,
flytur gleði, fjör og líf
fugla-sveitin blíð.

Þar í ríkum ranni
rjeðu langa stund
halur og horskur svanni
hinni fríðu grund;
skorti hvorki frægð nje fje;
háa giptu' og gengið flest
guð ljet þeim í tje.

Þegar glaðir gestir
garð þann komu sjá,
æsktu eflaust flestir,
Íslands niðjum hjá
húsin fleiri fyndust slík,
þar sem bæði hjarta' og hönd
hefði gæðin lík.

Flata eyjan fríða,
farið er sagt þitt blóm!
Veit ég vorið fríða
vekur fornan hljóm
næsta sælan sumardag;
þó mun flestum söngur sá
sorgar heyrast lag.

Kveð jeg manninn mestan
moldar genginn braut;
kveð jeg bragning beztan
byggja jarðar-skaut;
kveð jeg ekki marklaust mál:
nú er til guðs síns gengin heim
göfug og falslaus sál.

Þar var dáð og dugur,
djúpsett vit og spekt,
hreinn og prúður hugur,
hjartað elskulegt,
hugult, viðkvæmt, hollt og tryggt,
líkt og brosi höfðings-hús
hátt á kletti byggt.

Genginn ertu' inn göfgi
guðs og manna vin;
þungur hryggðar-höfgi
hylur gleði-skyn
vina þinna vítt um geim.
Faðir! bróðir! farðu vel
í fagran sólarheim.

*Matth. Jochumsson.*



## Ingileif Sólborg Charlotta Benedictsen.

I.

Því leggurðu' aptur augun þín
þú elskulega barn?
Af trega sortnar sjónin mín,
að sjá yfir þetta hjarn.
Er lífið svona veikt og valt?
Er vert að lifa hjer?
Er lánið svona laust og kalt?
Ó, líkni Drottinn mjer.

Því leggurðu' aptur augun þín,
þú elskulega sprund?
Sem liljan meðan skærast skín
og skreytir sólin grund.
Nú fyrst þú bjóst oss beiska þrá,
ó, blíða gullhlaðsey.
Jeg efast um hvort sólin sá
og signdi betri mey.

Jeg þekki enga yngissnót,
sem erfði meira en þú
af föður síns mildu manndómsrót,
af móður sinnar trú,
og beggja kærleiks gæða gnótt,
og gáfum fleiri þeim,
sem birtu slá á böl og nótt
og bæta þenna heim.

Jeg veit þú færð ei heimsins hrós
og hverfur bráðum gleymd:
þú lifðir eins og ljúfust rós,
í lautu sinni geymd;

með stakri hógværð huldir þú
  þitt hjartans dýra skart.
Ó, hefðu allir aðra' eins trú,
  sem eiga gullið bjart!

Svo far þá vel í fegri borg
  með fá en saklaus ár;
þú missir að eins mæðu' og sorg
  og miklu fleiri tár.
Tak skart þitt, barn, þitt skírnarskart,
  og skín þú eins og sól,
þá líður þú í ljósið bjart
  við lausnarans náðarstól!

En hef þig upp frá sorg, mín sál,
  og syng um guðlegt ráð,
að bæta mannsins beisku skál
  og birta líkn og náð.
»Þinn vilji verði«, móðir mæl,
  þá mun þjer renna ljós.
En sof þú vel, og vertu sæl,
  ó, Vestfirðinga rós!

*Matth. Jochumsson.*

---

## II.

(Undir nafni móðurinnar).

Nú er þar auðn, hvar áður »Sólborg« stóð,
Og ömurlegt um bersvæðið að líta:
Mig firrist ylur fagrahvels við glóð,
En frostnæðingar sárt í vangann bíta.

Eg litast um, en leiðarvísir minn
Er leiðþrots dapra vofan — Sjónarsviftir;

Eg bið og mæni, en sorgar sjónaukinn,
Ið sollna tár, ei borg úr auðn þó lyftir.

Eg eigra fram, með sjónarlausri sjón,
Við saknaðarins arm á dauðans hamar;
Og hjartað, vonarlausrar vonar þjón,
Fær varla greint, hvort lífið líf sje framar.

Hvern furðar það?—Mín fagra »Sólarborg«
Er fallin: þar var geymdur lífs míns auður;
Þar áttu móðurást og minning torg,
Og minnisblómum ríkt var »Sólarhauður«.

Þau minntu' á hann sem borgin bar af nafn:
Og »Blessaður« hann hjet á þeirra máli;
Þau minntu' á tregað systkinanna safn:
Og »sæl« þau hjetu, leyst frá jarðar táli.

Þau minntu' á flest hins liðna lífs míns tár:—
»Þau laugast í Sólborg gleði þína hreina!«
Þau minntu' á hjartans djúpu svöðu-sár: —
»I Sólborg gróa lyfjar allra meina!«

Þau minntu' á stríð, á vonzku, svik og vjel:—
»Ó, vertu örugg, hjer er griðastaður!«
Þau minntu' á elli, heilsuþrot og hel:—
Æ, hvílstu, hjer er lífsins aftan glaður!

Og títt, er sút mig sækja vildi heim
Frá sorgarkynnum fyrri raunadaga,
Þau kváðu:—»Móðir, mæðu þinni gleym,
Vort mál er lífs þíns friðþægingarsaga!«

Æ, borgin mín, hún var mitt barn, er mjer
Var blessun allrar blessunar á jörðu,
Mín ellistoð og einkavon, er hjer
Að einstæðingi dauðans lög mig gjörðu.

Eins föst í skapi eins og frjáls við synd,
Hún fíflsku hjegómans ei sinna náði;
Eins trúuð var hún, hrein og líknarlind
Sem ljúf og hugþekk, gæf og sett í ráði.

Ó, heimur, lát þig eigi hneyxla mál
Er hjarta móður-einstæðingsins talar!
Eg er að kveðja sálar minnar sál,
Við sálað barnið móðir sálug hjalar;

Já, hana, sem var lífs míns eigið líf,
Hið ljúfasta, sem ljúft var mínu geði;
Í andstreyminu: hlífa minna hlíf,
Í eptirlæti: gleðin minnar gleði.

Æ, vertu sæl! — Í sælu gengin reit
Þín saklaus önd það hlaut er æ hún trúði:
Því algæzkunnar þar af eigin hönd
Þjer er nú fenginn rjettlætisins skrúði.

Í þeirri von eg þreyi nú, og bið,
Að þessar stundir megi bráðum dvína,
Unz sigurmorgun samfund leyfir við
Inn sæla skara, ljóssenglana mína.

*Eiríkr Magnússon.*



